# Barna-Ljód

ordt af

sál. Síra

# Vigfúsa Jónssyni,

fordum Presti ad Stød i Stødvar-Firdi i Sudur-Parti Mula-Syslu.



Med Ljúflings-Lag.

---

**Onnur Utgáfa.**

---

Kaupmannahøfn,
A kostnad Prófasts Guttorms Þorsteinssonar,
prentud hjá S. L. Møller.
1838.



Árinn hafdi eg alls á baki átta yfir tugina tvenna, þá hid fyrsta fékk eg séna, af mér komna, eina Dóttur.

Hana eg tók og taladi þannig: sæl, velkominn sértu ad vísu, skapleg kind af Gudi géfin, uppfylling minnar Æfisögu!

Synda minna sé eg menjar berlega, á barnsgrát þinum, íllsku-rót er upphaf mædu, því er skyldugt þér eg dilli.

Það verdur mér þá ad ordi, fyrst þegar þú ser ad æpa: Gud þig aldrei gjalda láti, miskunsamur, minna synda.

Ertu nú kominn inn í heiminn, nokkud meir enn nætur-géstur, en hvad margar áttu ad gista, hann veit sem þig hefir skapad.

Ertu nú fyrsta itt frá landi, á ólgu-sjó aldarinnar, hvad morg, eda hvadan kémur, á þig bárann, er hjá Gudi.

Ertu nú fyrsta inni geingin volundarhúsid villugjarna, hann, sem hefir heiminn unnid, adstodi þig út ad rata.

Nú ertu ordin nýr strídsmadur, Endurlausnarans undir merkjum, sjái hann til þín, svo þú eignist þína sál í þolinmædi.

Æfinn manns er oll ad sonnu eymdafull og fárra daga, þó er lángur lasta-tíminn, og hlid ormjótt til himnaríkis.

Gud géfi þú gétir ratad þettad innum þraungva portid, og vardveitist á vegi réttum, þángad til ad þú uppleysir.

Auki sá þig endurfæddi endurfædingar í þér krapta, trúar svo ad tendrist ljósid og ávoxt beri alla vega.

Ei veit eg hvort audid verdur, ad eg vid þig ordum skipti, þau þegar ad þú fær skilid og andsvor gésid aptur á móti.

Því vil eg að þetta liggi eptir hjá þér, ef aldri náir, það þú skalt, af þánka öllum, óttast Guð og elska bæði.

Eigi áttu auði að fagna, ei hofðingja hylli stórri, ekki ríkum ættarmonnum, hvari margur Hælis leitar.

Hvorninn kantu þá að þrífast, utan Guð þú eigir Foður, en hann hefir aldrei brugðist þeim, sem hafa þóknast honum.

Herradóms er hans í valdi auður, heiður, afl og gjæfa; sjálfur er hann sinna allra mikil laun og mæta skjoldur.

Þess vegna skal það nú gánga, eitt fyrir þér undan hinu, að þú orð og andsvör Drottins ydkir meðan endist lifið.

Það er skírust skémtan manni, óyndis í aumum hogum, hugguu gild og heilnæm regla, prýði, afl og yfirvinning.

Guð bið eg þér géfa virðist nýta gáfu náms og menta, í lærdóminum lostugt hjarta og ávoxt í öllum dáðum.

En þad dugir ekki ad læra, utan fylgi ótti Drottins, hann ad elska og honum treysta, idkananna er einka brúkun.

Sá sem þekkir þad hid góda, elska mun þad og umfadma, hann sem elskar, hann vidleitast, rétt ad þóknast þeim hann unni.

Ad Gud þekkir og þig sjálfa, þarmed heim i þridja máta, næsta mikil naudsyn krefur, ef klaklaust viltu komast hédan.

Ef gudrækin viltu vera, máttu búast vid mótlæti, af þvi áttu og ad venja þig vid þad ad þola nokkud.

Ef gudrækin viltu vera, þá verdur þú þér ad neita, og þad ekki allt ad sæma, sem þér kann til sinnis vera.

Ef gudrækin viltu vera, vist má þér ei vara i augum glis veraldar, geingi og audur, fánum tveimur tekst ad þjóna.

Ef gudrækin viltu vera, hvradu um þig hendi aldrei, forhvrad, þad fær þú vitad Gudi vera gjørt til stigdar.

Ef gudrækin viltu vera, flýa skaltu ad forsmá annann, enn þig halda, ollum fremur, óverduga í augum Drottins.

Ef þú hittir, sem opt kann vera, blídmálugann bakvaskara, lát þú vel yfir hans vinalátum, en set traustann lás á túngu þína.

Eitt er hid mesta meistara-stykki, ómissandi í ollum greinum, munninum haga mátulega, þad er vandi ad þegja og tala.

Elska sannleik í ollum hlutum, hann medkéndu hvad sem gildir, annadhvort þegar æra Drottins, edur velferd annars vid þad liggur.

Þó skaltu ei vid þrætinn képpa, opt hefir vandi af því risid, ef hann lætur sér ekki segjast, villist hann, en vertu afsokud.

Eingum láttu ord þin liggja til óvirdingar né ógédþekknis, en brúkadu aldrei blídyrdi mikil, þau plaga ad fylgja folsku sinni.

Vertu hógvær og varast deilur, en ef ordum áttu ad skipta, skrafadu fátt, med skírum rokum, yrdstu þó aldrei vid órádvandann.

Brúkadu aldrei breytni í ordum, spottid fylgir fordildinni, enn ofurbúralegt ordatiltæki hæfir þó aldrei hæversku fólki.

Lofa ei miklu, en lát ei bregdast, þad sem þú hefir heitid eitt sinn, eptir þinn munn skal aldrei finnast ósannindi né orda=skvaldur.

Hvad á þig vinnur, hvad þú tilhneigist, hvornenn þú vilt þína hagi tilsetja, hvad þú elskar, hvorju þú treystir, glósadu ei fyrir ganta hvorjum.

Lofadu aldrei lesti annars, þögn er betri, þó í máta, hræsni kollum vér hvors manns skjækju, enn þögn er sjaldan á þing borin.

Fordastu róg sem fjandann sjálfann, og slá þér frá ollum sladur=túngum, hjá villudýrum vil eg búa, heldurenn soddan háska=ondum.

Forvitni, grunsemd, félag skrafinna, lausinni, mælgi, léttferdug skémtan, trúgirni, fals og flokkadráttur, eru rætur þær, sem rógurinn ver af.

Illum géf þú eptirdæmi af þér gott, enn aungum hneirli, þó skaltu eigi þar til sigta, ad heilagleik þínum hæli adrir.

Einfold vertu eins og dúfa, höggorms þar hjá hafdu slægdir, háll er mörgum heimsins gvidur; sæll er því hvör sig gódann geymir.

Stoduglyndi og stríd vid holdid ef Guds ótta í þér fylgir, muntu ei, þó misjafnt falli, sneipulega sneidíng rata.

Þegar þú fær ad þekkja heiminn, finna muntu ad fast er ekkert, uppá þad sem ætla meigi, hann er eins og hafid í logni.

Treystu Gudi fyrst og framast, sídan skaltu sjálf þig vara, og þó um aungann illa meinir, eigdu ei mikid undir neinum.

Gott er ad hafa gódra manna hylli og ástir hvad sem gildir, enn faladu þá med slensi aldrei, og haf ei von á höfdíngjunum.

Gódum altíd gott til verdur, þóad vondir þrykki æru, því er bestur þessi vegur: ad vanda sig og vera stillinn.

Þarfyrir, ef þig vill lokka, voldugur til verka ljótra, kjærleika hans kaup þú aldrei, fyrir sóma og samvitsku þína.

Vertu ei framfús þar fyrirmenn sitja, hætt er fátækum við höfðingja borðið; heyr ógjarna holda laumumæli, þar er eingi kéndur sem hann kémur eigi.

Enn ef góðu er að þér vikið, láttu þér ei lengi streygja, hofmóðs kénna þau herralæti og færa með sér forsmánina.

Hátt skaltu fyrir þér hura aldrei, nasir rak það niður á sumum, sá á flatri foldu liggur hefir ekki hvaðan hann detti.

Heimskur maður í hefðar-sæti, asni er með eyru af gulli, enn lágur, sá af list forstendur, garðinn sinn mun gjöra frægann.

Ef þú mikið á þig litur, máttu vita þér vísann hnekkir, andvaraleysi er upphaf fallsins og hofmóður hrösunninnar.

Vertu ætíð yfirmönnum, með auðmjúkri lotníng undirgéfin, þinum likum þæg, viðfellin, aumum ástar- og góðvikin.

Ekki sakar þó óráðvöndum, sýnir á þér sérgæði nokkuð, svo máttu forðast selskap þeirra, betra er autt rúm, enn illa skipað.

Sér ad lifa sýnist morgum, hentugt vera, og halda af því, enn vér kollum þann allra bestann, sem odrum jafnan er þjónandi.

Hirdtu aldrei hvad heimskir gambra, og virdtu ad aungu vinskap þeirra, þar er lika lof í falid, ad géta misþóknast manni vondum.

Ad hilma yfir hinn ófróma, kjærleik gódann kalla margir, þetta áttu þó ad varast, akurmadurinn orminn vermdi.

Vertu ei gésin fyrir virdingunum, sjálfar fylgja þær sidgjædinu, fordast optlega frekann bidil, en hænast ad þeim, sem hirdir ei um þær.

Eitt er lika athugandi, ad vera ei ofvandur ad virdingu sinni, hádvør grunsemi hér af sprettur, þessi er von ad þiggja fréttir.

Attu því þetta alt ad varast, svo grandvarlega gángir í ollu, ordinn er blettur á ædi gódu, ef þú velkist í vondum rógi.

Lika er snertur af losædi ónytju-rollt á adra bæi, þad sá eg aldrei sídnga brúka, misjafnt skartar margra gaman.

Ef þér kann til eyrna berast, að einhvor um þig illa rædi, drep þú hans árás með dagfars prýði, enn lát ekki vídar vid þig koma.

Tak ei mjøg hardt á hrosum annars, kannské þig vidlíkt kunni að henda, hlakka ei yfir hans óførum, eingi er betri af annars falli.

Eg sá þrent ljótt á æfi minni, og aldrei heyrdi eg af því raupað: síðuga mey í solli dreingja, konu drukkna og kjaptugann úngling.

Vitur er sá sem víslega geingur, svo eru hyggindi sem í hag koma, forsjálum dugir fyrri varinn enn heimskan svikur hinn sídari.

Ef vandasamt eitthvað viltu byrja, géf fyrst gjætur og grunda að því, hvað það rentar, ef rétt vel fellur, og hvar vid lendti, ef versta tækist.

Ef sú vogunin virdist meiri, enn ávaxtar er til vonin, held eg betra heima setið, hægt er heilann vagn til húss að draga.

Hugadu um hvað hyggnir seigja, og hend það upp sem hænan kornið, viturt ord í tíma talað, dýrara er, enn djásn af gulli.

Milli svalls og mikilrar nísku mjór er sumum medalvegur, hvad sem frá*) honum víkur, hefir ætíd illa géfist.

Vel þér ekki vini marga, þeir eru bestir þá vel geingur, alla skaltu þó elska af hjarta, og óvinskap á eingum hafa.

Temm þér æ frá úngdóminum, stoduglyndi med hreinum huga, vinskap þetta vel mun geyma, enn skjaldan eldast skóla-brædur.

Offsa og reidi áttu ad fordast, ordsök er þad til yfirsjónar, á þeim boda ætla eg margir skadlegt hafi skipbrot lidid.

Hugsa ei um hentugt færi til hefndar á þínum hatursmanni, gjördu honum gott í öllu, enn aldrei illt, þó orka meigir.

Girnstu aldrei þad gétur ei feingid, þad er ad auka sér órósemi, þér skal lynda þitt hlutskipti, sá hefir nóg sér nægja lætur.

Hvör sem lætur sér huginn fallast, hann er farinn í hvörju bángi, enn þolinmædin þrautir allar yfirvinnur og aldrei bilar.

*) Nú leidrétt; ádur stód: fyrir.

Ekki hlýdir oſſa-kjæti hogum vorum í heimi þeſsum, fibla blátur er ſauta ædi, ſorg og gledi ſé í hófi.

Huradu, þá vid hag þinn fellur, ad hamingjan kunni hueſkir rata, ſídur mun þá ſæidin giuna, eda hrygdin of mjog beigja.

Ekkert er faſt í ollum heimi, utan dygd med djúpum rótum, vel hana því, enn vird þú annad, eins og væri þad utan vid þig.

Þakka Gudi þá vel geingur, eins líka í andſtreyminu, hann veit hvad oſs hagar betur, og elſkar þá hann agar barnid.

Eitt veit eg heimſku allra meſta, og ſá hana þó til ſumra manna, ad látaſt mikill af láni annars, hvorjum er næſt þad hann er ſjálfur.

Heimſkir loſa-hoflátúngar þykjaſt miklir þá þeir ſtáta, en óhreinmenuſka er artinn ſvína, ſvei þá bádum med ſomu virding.

Eins ſkaltu vanda æru þína, þó eingi manna ad þér hyggi, aldrei ſamuſt þad fólſtu ekki, Gud og ſamvitſkan gjætir ad ollu.

Avirðíng þína ætíð játa, og bið þá forláts sem brautstu ámóti, mørgum þykir þar mikið fyrir, það er þó vegur til viðréttingar.

Láttu þér ei líka miður, umvøndun af ærlegum manni, høgg hins vísa hugnist betur, enn léttferðugra lof í eyrum.

Trú og hlýðni tvær eru systur, sem haga sér vel í húsum øllum, ef þeim fylgja ydni og ótti, munu húsbændum hugnast þínum.

Hér að stýðji hønd og munnur, með æru og dygð í øllum stoðum, fram dregur það, ef fátækt kéfur; skín á gull þó í skarni liggi.

Það sem þú átt til þarfa að læra, stundaðu vel á úngu árum, æskan skapar æfina mannsins, leingst býr kérið að luktinni fyrstu.

Sá er ónýtur, sem ekkért kunni; sá kann ekkért, er ekkért lærði; sá lærði aldrei sem lék sér altíð; það skal dýrt kaupa, sem kostar mikið.

Fátækt og auður falla misjafnt, metorð og vinsældir víkja þareptir; en kostir þeir, sem komstu yfir, fylgja þér*) ætíð, þó fari annað.

*) Nú leiðrétt; áður: þeir.

Haf þú ætíd eitthvad ad gjöra, illt lærum vér med idjuleysi; þá er Satan, med þaunkum vondum, á allar sídur ástormandi.

Innfoll vond, ef ad þér koma, svo sem kristna menn kann ad henda, láttu þau aldrei um sig búa; opt verdur eldur af einum neista.

Þá skaltu stunda þína kallan, og hafa þér vid huginn fastann, bidja Gud og brjóta heilann hans í fögrum helgidómi.

Hérmed er ekki hæversk skémtan löstud, eda leikur í hófi, þad er betra enn þúngt hugferdi, af tvennu illu skal taka hid minna.

Þad er midpúnktur, upphaf og endir í öllu þessu ádur sögdu, ad temja sínar tilhneigingar, annars er daudum draumur sagdur.

Hugradu ætíd um þinn dauda, ei bída sumir ellidaga, bústu daglega vid bana þínum, og muntu svo loksins fara í fridi.

Ad drauma-þvættingi dárlegra manna gjæti adrir, en Gudi treystu, hvradu þínir hagir séu í hans forsjón allir saman.

Vertu aldrei svo ant vidlátin, ad þú bænina undanfellir; sú skal mín hin sídasta vera, áminning vid þig elsku-dóttir!

Far þú á stad, í fridi Drottins, rádvönd fram í ranna-heiminn, þad sem brestur á þessar reglur, upp bid eg finni Andi Drottins.

Þad skal mínum moldar-auka æra og gledi, ad þú gángir á Guds vegi alla daga, og upprísir hrein á efsta degi.

Gud sá sem þig gjordi í fyrstu, aptur keypti og endurfæddi, ávarti þig í øllu gódu, til heidurs sinn heilaga nafni.

Svo þú varir ad vitsku og árum, Guds vináttu og gódra manna, og svo blífir alla daga kér til heidurs í húsi Drottins!

Hann sem hefir mitt hæli verid, mildilega frá módur-knjánum, og leikid vid mig sem ljúfur Fadir, taki vid þig trygda-fóstur,

Varni slísum, verndi og hlífi, rád á leggi og raunum bæti, styrki vel í strídi øllu, og sendi hjálp í hentugan tíma,

Og þá loksins ertu kominn að takmarki ára þinna, liknsamur þig láti finna hóp útvaldra í himnaríki!

Allra Drottins barna bænir eitt í amen yfir þig falli, í frægu nafni Fodur og Sonar, hér með lika heilags Anda!

Nú hef eg vandad þér voggu-kvædi, enn skil það á þig í skémtunarlaunínu, að það geymir, ef géfst þér aldur, hvort eg er lífs, eda lík í moldu.

---

